# Lögbok

## Islendinga/ Hueria saman

Hefur Sett Magnus Noregs Kongr/ Lofligrar minningar/ So sem hans Bref og Formale vottar.

Yfirlesin Epter þeim Riettustu Lögbokū sem til hafa fengizt.

Og Prentud epter Bon og Forlage Heid arligs Mans Jons Jons sonar Lógmans.

1 5 7 8

MAGNUS med Gudz Myſkun/ Noregs Kõgr/ Son Hakonar Kõgs/ Sonar ſon Suris Kongs/ Sẽder óllum Gudz vinũ og ſijnum a Iſlande/ Kuediu Gudz og ſijna. Þier vitid ad hiner ſkilrijkuſtu mñ a Iſlande hafa jdugliga gietid fyrer oſſ ad þier hafid ſpurt/ ad vier hófum hlut j ætt/ ad bæta nockut vm fleſtar Lógbækr j Noregs Kongs rijke mz hiña beſtu mañæ rade/ og bedit oſſ ad ydar Lógbok ſkyllde eigi hlutlaus vera þeirra vmbota. Eñ þier ſkulut vita ad oſſ bar ædur vel fyrer ad ſia/ eñ einckanliga nu beſt/ þar ſem þier treyſtud ſuo mikid a vora forſia/ ad þier dæmdut hana alla j vora ſkipan/ þar af ad taka/ og þad vid ad leggia ſem oſſ þætte bera/ med hiña beſtu Mañæ rade/

Og

Og af þui höfum vier nu jdugliga ſkodat
hana/og lizt oſſ ſuo ſem vnda mætte mz
færrum ordum fullañ vrſkurd giora/þar
ſem hun talar ædur geyſe langt vm/ Eñ j
ſumum ſtödum þyrfte hun ſañliga til lau-
gu/þar ſem hun var ædur huergi lioſare/
enn margier þyrfte þeir ſem ædur voru
fakuñuger. Nu þo ad vier kieñū oſs miög
fakuñiga til ſlikra ſtorræda/ þa höfū vier
þo þſſa Bok Rita latit/ſm̄ vier ſendū ydr
med Herra Jone Lögmañe/ epter ſlykum
1280 hætte ſem hū vottar/ Treyſtande a Myſkū
Drottins vors Jeſu Chriſti/og frra ſkyn-
ſömuſtu Mañā til laugu ſem þa voru hia
oſſ/ Eñ ad þier ſkiliet þui giör/ þui vier
höfum ſuo Balkunum ſkipad ſem nu er/
þa greiner þeſſe hattur fyre ydr ſem hier
ſeiger.

Þingfarar Balkur er nu ſem fyrr at
tunduerdu Ritadur/ fyrr enn hefur ſialfa
Bokina/ Þuiat ædur hæfer at ſkipat ſie
Þingit/nefnder ſkodadar/Lögriettu Meñ
komner/Eidar flutter/Grid ſett/ og Sid-
ſemdū

semdum lyst/ ad þui betur verde Bokiñe blytt og Domum/sem Þingit er betr side ad ỽ stillt.

Fyrste hlutur Bokarinnar er Kristins doms Balkur/ad meñ skilie Kristeliga Tru vera Grunduóll og vpphaf allra godra hluta/ỽ Heilagrar Kirckiu frelse ỽ hlydne/ og heñar Formeñ vera lysing og leidtoga til allra Riettinda/ og skynsamligra rǫgsemda.

Næst Kristins dõs Balke er vm Konga Þegnskylldu/at Alþydañ skilie þañ sama Gud hafa skipad Kõg dominñ til Veralldligs valldz/sem Byskup til Andligs.

Epter Kongs Þegnskylldu er Mañhelge/þuiat næst þessu hæfer Hǫfdingiũ og ǫllum vti fra/ ad hallda og hallda lata Gudz frid/ og godra Manna frelse a mille Kristiña Maña/og þeim med Lǫgũ og þo hofsamliga epter atuikum ad refsa semad ǫdru verda brotader.

Næst Mañhelge er Erfda tal/ med þui fleira sem þar fylgier ỽ hefer þ med

Kuēna giptingum/ þat myklu vardar þm sem til arfaña kalla ad þeir sieu j lógligū Hiuskap gietner.

Epter Erfda tal er Landa brigde/ þt j þañ tijma sem Madur Erfer nockrar Jarder / þa hafer hm̄ ad skoda vm̄ sijn odul og añara maña/ ad halldi ongra maña ódulum med laugum soktum/ og kusie sialfs sins Odulum med Lógum ad brigda.

Epter Landa brigde er Landz leigu Balkur/ Þuiad þeim hafer med Lógum sinar Jarder ad byggia/ sem med Lógum hafa ad komist,

Epter Lādz leigu Balk er Kaupa Balkur/ Þuiat so skal epter laga soknum lausa aura sækia/sem epter Landa brigde Lōd og Jarder.

Epter Kaupa Balk ero Farmaña Lóg/ Þuiat þeim hafer med riettum Kaupskilū ad fara/sem sitt vilia med Kaup ferdum a varta.

Epter Farmaña lóg er Þiofa Balki/ Þuiat

Þuiad Þad hefer fyrer önguum ad fortis
na/sem eigande hefur med lógum at koms
izt/Enn sa er ödru vijs giorer mun Lags
refßing fyre faa.

Sijdast j Bokinne ero Konngs Riettar
Bætur/ At sa Kongur sem til er skipadur
epter ad sia lógunum/ epter dæmum sinna
forelldra/ a eigi sijdur ad hugga sijna sids
sama Þegna med linkindum og Riettar
botum/Enn ad tempra ospaka med hirtigs
um og lógligum refßingum.

Erßder þær sem til hafa fallit vm
Landz brigde og Vijga felle/ og öll aunnur
lagamaal/vnder huerium lógum sem þau
vrdu/ þa skulu þau epter Þui vera sem þa
gecngu laug j Lande er þau maal giordust/
eß eigi hefur ádur lóglig skipan a komit/

Bidium vier ad þier vorkyñit oss þad
sem a skorter / Þuiat meir hefur valldit
kiolskyllda og vankuñende/ eñ vilia leyse
sem ætla ma/ Þo ad vier hefdum miña j
ved sett/ og oss tæke sialldnar Þetta epne
eñ oss tekur. Finst og nockud nytsamligt

Magnus Kongs]
i/ Þanckum þad aller JESV CHRJ-
STO Drottne vorum/ hans Nafn
ſie Bleßad vm allar Allder Veralldar.
AMEN.



## Hier hefur Þingfarar balk
Og Seiger/ Vm Alþingis skickan/ og Neffndar Men̄/ Vm Vitne/ Vm Domroff z Laga Steffnz

## Cap. I.

SKJDVR Og Blezan Vors HERRA JESV CHRJSTJ sie med oss aullum Løgþingis mønnum nu og jafnan. Enn vier skulum Laugþinge vort eiga/ ad Auxar á/ á Þingstad riettum/ á Tolff manudum huerium/ og koma þar a Peturs Messu aptan. Þar skulu aller komner af norfalla lausu/ þeir sem til Løgþingis eru neffnder. En̄ Valldzmen̄ skulu neffna haffa til Alþingis fyrer Pasker so marga Men̄ vr Þinge huerin/ sem hier vottar/ edur þeirra løgliger vmbodzmen̄/ þing þ. z.

 Og

Og nefne þa er forverks meñ eigu/ og þeim þikia vænaster til skula/ z sie færir ad Þingmaña dagleidum/ suo ad þeir meige þat med eidum saña. Enn þañ Eid skulu þeir sueria fyrer Logmanne/ fyrstann særann Dag er þeir koma til Þings/ med þessum Eidstaf. Ad til þess leggur hañ Hond a Helga Bok/ z þui skytur hñ til Gudz/ad þa meñ hefr hañ til Þings nefnda ad þui siñe/ sem hm̃ þotte vel til fallner/ z vænaster til skila epter siñe Samuisku/og ei tok hñ þar adra mune til/og so skal hañ jafnan giøra a medan hñ hefur þetta starf/ Þeña eid þarf eingi optar at sueria eñ vm̃ siñ.

## Cap. II.

### Vm Nefndar Maña Kaup.



V skal Valldzmadur nefna vj. menn vr Mula Þinge/skl huer

huer Nefndar madur fyrer nordan Auxar heide/ hafa xviij. aura i Farar eyre/enn tuær Merkur fyrer sunnañ. Ur Skapta fellz þinge skal nefna Sex meñ skl huer Nefndar Madr fyre austañ Lomagnups sand hafá xij. Aura j farar eyre/eñ x. Aura fyre vestañ. Ur Rangar þinge skl nefna viij. meñ/ skal huer Nefndar madur þadann hafa vj. Aura. Ur Arnes þinge skl nefna xij.m̃/ skal huer Nefndar madur þadann hafa halfa Mørk. Ur Kialarnes þinge skal nefna jx. meñ/skal huer Nefndar madr þadañ hafa halfa Mørk. Ur Þuerar þinge skl nefña viij. m̃/skl huer Nefndar Madur þadann hafa halfa Mørk fyrer suñañ Huita/ eñ v. Aura fyrer Vestan. Ur Þornesþinge skal nefna vj. meñ/skal huer Nefndar madr þadã hafa Mørk j farar eyre fyrer Sunnañ Huams fiørd/eñ x. Aura fyre vestan. Ur Þoska fiardar þinge skal nefna v. menn/

meñ/ skal huer Nefndar madur þadan
hafa/ fyrer suñann Slamu j farar eyre
xij. Aura/ eñ tuær Merkr fyre vestan.
Vr Huna vatz Þinge skal nefna Sex
meñ/skal huer Nefndar madur þadann
hafa j farar eyre vij. Aura. Vr Hegra
nes Þinge skl nefna viij. meñ/skal huer
Nefndar madr þadañ hafa mørk. Vr
Vødla Þige skl nefna vj .meñ/skl huer
Nefndar madur þadan hafa x. Aura.
Vr Þingeyiar Þinge skl nefna iiij.m̃/
skl huer nefndar madur þadan hafa xij.
Aura. Skal huer Syslu madur j sinne
Syslu/þetta greida sem nefndar møñū
er ætlad/med godum greidskap af sinū
hlut þingfarar kaups. Eñ huer sem þat
gielldur eige Nefndar møñum er þeim er
skipad/ þa er sa sekur vj. Aurū/ halft
eiganda/eñ halft Løgriettu møñum/og
sækie sem vita fie. Nefndar meñ aller
sklu med Løgmañe a Alþing rijda/ þeir
sem samleid eigu vid hañ. N.B.S.K.
Enge

Eige ſkal hãdgeingna meñ til Aurar at þings nefna/ nema fyre Kongs erinde. Nu ef Valldz madr nefner ei ſuo menn til þings ſem hier vottar/ edr hñs løgligur vmbodz madur/þa er hañ ſekur xij. 18 aura
Aurum fyre huern þñ mañ ſem onefndur er/edr rangnefndur/halft Konge eñ halft Løgriettu møñum. Aunguañ ſkal til lauſnar nefna/ꝫ þuiat eins vmſkipte a giøra/ad þeim gange løglig forføll til er adr var nefndur. Valldzmeñ aller og ſoknar meñ þeirra eru ſkyllder at kõa til Løgþingis/edr ſkilrijker vmbodz meñ þeirra/Skulu þeir vera vmfrañ nefndar meñ og taka ønguañ farar eyre. Eñ ef þeir kõa ei forfalla lauſt/ ſekiſt huer þeirra iij. Mørkũ/halft Kongi/eñ ha- 3 merk
lft Løgriettu møñũ/og Rite Løgmadur til Kongs ſlik tilfelle. Huer Bonde er ſkylldur/ ſa er a x. Hundrud edur meira fie/ ad fæda þa meñ er til Laugþingis reidar eru ſkyllder/halfu færre hionum/

bæde er þeir rijda til þings/og fra/ella er hañ sekur ij. Aurū fyrer huerñ þañ mañ sem ei er alíñ epter løgum forfalla laust. Nu epter þui sem adur var greit/ þa skulu Þingmeñ aller til þings komner fyre Peturs Messu ꝛ Pals/a Løgmadur þar fyrer ad vera forfalla laust. Eñ hu Nefndar madr sem sijdar kiemr til Løgþingis eñ Sære eru flutt/ sekur xij. Aurum/nema naudsyn bañe/ Mete Løgmadur og Løgriettu meñ þær naudsyniar.

## Cap. III.

### Um Sidu og skickan a Alþinge.

Þing skal standa so leinge sem Løgmadr vill/og Løgriettu m̄ samþyckia. Løgmadr skl lata giøra Vebønd a Løgþinge/i Þingstad riettū/suo vijd /at þeir menn hafe ruum at sitia fyre iñañ sem j løgriettu

riettu eru neþnder/þad skulu uera þrennar Tylfter Manna. Skal Lögmadur og Balldzmenn neþna þria Menn vr Þinge hueriu/þa sem þeim þikia best til fallner. Þeir menn sem j Lögriettu eru neþnder skulu eid suerta þyre Lögmanne adur þeir ganga j Lögriettu med þessum Eidstaþ. At þui skytur hann til Gudz/at hann skl suo til allra manna mala leggia/ sem hann veit sannast þyre Gude/ epter Lögum og sinne samuisku/ so med sökudum sem sikniudum/og so skl hann saþnan giøra þa hann er j Lögriettu neþndr. Fyrstann tijma skl hann þenna Eid suerta/ er hann er til Lögriettu neþndr/enn ei optar/þo at hann sie neþndur. Ginge þeirra manna sem ei eru j Lögriettu neþnder/skulu setiast jnnan Vebanda vtan orloþ. Enn eþ hann setz og geingur ei vt þegar vid hann er mælt/þa sekizt hann halþre Mørk. Aller menn eiga ad ganga til Lögriettu þegar Lögmadr lætr hringia hinne myklu Klu-
cku/og

Lögrietta manna
½ mörk.

eku og ſitia þar ſuo leinge ſem Løgmadr
vill Þing hafa. Eñ huer ſa madr er ei
kiemur til Løgriettu ſem nu er mællt/ er
ſekur halfre Mørk. Enn ef nockr madr
ſlæſt j mat edur mungat/ og ræker þad
meir eñ Þingit/ hañ ſkl øngua vppreiſt
eiga ſins mals a þeim Deige/huad ma-
le ſem hñ a ad drifa a Aurar ar Þige.
Dryck ſkl einge madr til Løgrettu bera/
huorcki til ſølu nie til añars/eñ ef bor-
inn verdr þa er hñ vppnæmr/ og eigu
Þingmeñ hann. Aller þeir meñ ſem j
Løgriettu eru nefnder/ſklu ſitia ſuo ſem
nu er mællt/nema þeir gange vt ſaukū
naudſynia erinda ſinna. Enn ef menn
ganga vr Løgriettu vtan Vebanda naud
ſynia lauſt/ þa er huer þeirra ſekur ij.
Aurū. Þeir menn ſem eru vtan vebā-
da/ꝛ giøra þar harck edr hareyſte/ſo ad
Løgmenn og Løgriettu meñ meiga eigi
nadugliga geyma Doma ſiña/ ella þeir
meñ kiæra mal ſin ſem Løgmeñ ꝛ Løg-
riettu

riettū meñ hafa orlof til gi fit/ ſekur er huer Eyre er ad þvi verdur ſannur/ ef honum er til ſagt adur.

## Cap. IIII.

### Vm Vitne/ og þau Mal er a Alþinge ſkulu dæmazt.

Eptir Sognum og Vitnum ſkal huert Mal dæma. So er ef einn ber vitne med Manne ſem eige bere/ eñ tueir ſem Tiu/ ef madur ugger ei Anduitne i mote koma. Nu eru þau Vitne er ei ſkulu Anduitne i mote kōa/ Þat er Heimſtefnu vitne/ Þingſtefnu vitne/ Kuødu vitne/ Forſagnar vitne/ ꝛ Naudſynia vitne er vitnad verdꝛ vnder mañ/ og þau vitne er meñ bera vm Deilld maña a Samkundum. Þeir meñ ſem i Løgriettu eru nefnder/ ſkulu dæma Løg vm aull þau mal ſem i Løgriettu verda kiærd/ og þar

eru løgliga fram̄ borin̄. Þau mal skal fyrst dæma er til Løgþingis eru laugd/ epter þui sem Løgbok seiger og stærst eru. Epter þat þau sem þangat eru stefnd/ ⁊ aull þau mal er men̄ leggia hendur siuar saman fyrer vottum tueimur edr fleirum /ef þau Mal ⁊ Vitne koma þar fram̄ a þinginu/ Sijdan̄ þau er þar verdr a sætt ⁊ smæst eru. En̄ allt þat er Løgbok sker ei skilrijkliga vr/ þa skal þat hafa af hueriu Male/sem Løgriettu m̄ verda aller a eitt satter. En̄ ef þa skilr a/ þa skal Løgmadr rada og þeir sem honū samþyckia/ nema Kōge synizt an̄at løgligra med vitrøstu man̄a rade.

## Cap. V.

### Vm Vopnaburd/ ⁊ Þinguijste.

ALler þeir men̄ sem j Auxar ar þingfør eru/þa skulu j gridū vera huer vid annann þar til þeir koma heim til sins Heimilis. En̄

ilis. Enn ef einhuer geingur a þesse grid /og vegur Mann /edr veiter Lemstrar Sar/ þa hafe sa fyrre giort Fe ꝛ Fride/Lande og lausum Eyre. Enn ef men verda særder a Auxar ar þinge/edr ba einhuern vansa edr ohlut af manna olldū og vilia/ þa eyfst at helminge Riettur þeirra/en Konge xiij. Merkur. Ef menn bera Vopn a Auxar ar þige/ þa giallde þeir halfa Mørk/ og late Vopnin/ eigi Kongur half Vopnin og halfa sektina/En þingmen half ꝛ sekt halfa. Þuiat i aullum Stødum hæfer monnū at giæta Spektar ꝛ Sidsemdar/ en þo einckanliga j þeim Stødū mest/ er til Sidsemdar ꝛ Sætta eru skipader fyrer Onduerdu af godum monnum/ og flestum verdur mestr skade at ef nockud skierst j. Hueruetna þar sem men verda vijtter a Auxar ar þingi/þat fe a halft Kongr/ en halft Løgriettu men/ vtan Þegngillde og xiij Marka mal/edr meira/

ar/ Þad a Kongur. Eñ ell þinguiste þau er til þalla/ og eigi greidazt a þui Þinge/þa dæme Løgþigis meñ at greid dizt a ødrū Auxar ar þinge/ og take þa vid Syslu madr huer j siñe Syslu/ og þære þat þie til Auxar ar þings. Enn þeir meñ sem þetta þie greida eigi þyrer Prioſku ſakier/þa ſie þm̄ ſialþſteþnt til næſta Auxar ar þings/ og ſuare þar Sektum ꝛ Domroþū eþ þa greidizt ei/ og haþi Kongr helming/ eñ Þingmenn helming/ og haþe þañ helming er þing menn eigu/til þeſſer Valldz møñū med Løgmāz rade þiker meſt Naudſyn a vera þa ꝛij. Manude. N. B. E. K.

Þinguiſte ſkulu leggiazt til Þinghus giørdar ſo leinge ſm̄ þarþ. Nu eþ madr ryþur þañ Dom ſem dæmdr er a Auxar ar þinge/og Vopna tak var ad att ſnn añ Løgrielttu og vtañ/þa er ſa ſekur iij. Morkū vid Kong/eñ Mørk vid Sakar abera. Þui ſkal Syſlu madr huer lyſa

a Auxar

Þinguiſte

natak

na ſumi

a tak

verkur

rþ

a Auxar ar þinge/huerſu marger mañ. draparar edur adrer Odada menn vrdu j hñs Syſlu a næſtu Tolſmaunudum/og ſeigia ſkil a vm vøxt þeirra og yþer lit/ ſem hinum yrdu ad ſkada/ad þeir meigi þui helldur ad likiudum kiender verda/ huar ſem þeir kuña fram ad koma.

lÿſing obota m

# Cap. VI.

Vm rietting Mala þeirra ſem rangliga eru vppborin.

EF Auuar tueggi fryr a ſinn hlut/ þa er hñ kiemur heim j Hierad/og kallar rangt haſa verit vpp borit fyre Løgriettu mønum/ þa ſkal þo ei þeim Domi brigda ſekta lauſt. Eñ hñ ma ſteſna hinum er mal a vid hñ/hid næſta ar epter til Auxar ar Þings/ og haſe þa huortuegge ſitt mal vppi. Eñ eſ Mal proſaſt ſem fyrr/ þa haſi hiñ aſ hm̄ Koſtnad ſiñ

nad sin halfu aukin / sem ydde hann til rangs Mals / en Ronge Merk / & sækie sem adrar fiarsokner. Profazt og so ad hn hafe rangt vppborit fyrer Løgmanne & Løgrettu monnum er fyr dæmdizt Malit / & dæmizt þa hinum / þa hafe sa kostnad sin halfu aukin / og Mørk Rōge / og sæke sem Vita fe. Og so skal hvervetna þar sem Løgmadr og Skynsamer menn sia / ad menn verda rangliga edr aflaga sotter / og til laga stefnder / huert sem þad er til Løgmanz / edr adrar Þig stefnur / edr laga sokner / og dæmizt þeim a hendur er sottur var huørke Fie nie Eidar / nema hn er sokti sverie Eineide at hn hugdizt hin epter riettu male sækia. N. B. E. K. Þat sk stāda vm Melracka veidar sem Løgriettu menn skipa / og alldre meire sekt vid enn Sex alner fyrer eirn.

## Cap. VII.

Vm

Vm̄ Leidar þing.

SO er mælle at Syslū meñ skulu Þing eiga a leidū er þeir kōa heim aþ Auxar ar þinge/ꝛ lysa þyrer mønū þui sem talad var a Auxar ar þinge/einckanliga huer lykt þiell a þeirra manna Mal sem vi Hans Syslu voru. Syslu madur a þui þar at lysa/ad Løgþingi skal vppi vera ad Petyrs messu huert Sumar. Þui skal-hañ og þar lysa/at meñ skulu ei taka þa menn j Bygder til sin/er hlaupa Nordan edur. Suñañ Austan edꝛ Vestā/nema þeir viti adur skil a ad þeir sie skila menn/ þuiat slíker meñ eru þui vaner/ at vera nockurn lijkt eiñn Vetur/ edur Tuo/eduꝛ Þria/og hylla sig so vid m̄/ sidañ skiliazt þeir eige betur vid/eñ so/ at añad huort stela þeir Fie Maña/edꝛ hlaupa burt med Frændkonur maña edꝛ Nustrepiur. Enn huer ed þessa m̄ tekꝛ

fᴿamar eñ Løg lofa/þa er fa ſekr Mo-
vid Kong/ ef hiñ profaꝫt ad illum
mañe.

# Cap. VIII.

## Vm Domrof

A Clarþa Doma ſem vm̃ Viſga
ferle ſkal ſetia/edr vm̃ þeirra
Kueña legord/ſem fyrer eigu
ad koma full Mañgiølld/ edr
halff/þa Døa ſk alla mꝫ Løgũ ⁊ Griðũ
ſetia til fyrſta Sals. R. B. G. K.
Þar ſem madr ſeiger ſig vr Løgſømdum
Dome forfalla lauſt/løgliga til fraſdur
af Riettaranũ/ſa er ſekr halfre Mørk/
halft Konge/eñ halft þeim er Mal a/
vtan ſo mikid Vanda mal ſie ad dœma
at þeir fa eigi yfer tekid/Þa leggi þeir
þad mal heima til Løgmanꝫ/ella til Al-
þingis. Eñ Sa madr ſem ryfur Dom
løgſamdann/forfalla lauſt/fyrer Sal/
...dur

edur a þyrstum Sølum/þa geingur sa a grid sin/og er Tryggroþe/og hefr þyrer giørt Fie og Fride. Eñ þær ero naud-synlar/og. þorþaull þess er greida a/ ef hñ er Siukr edur Sar/ edur emhuerlar adrar stornaudsyniar bere til med hønu/ ad goder meñ bere vitne vm/at hñ matte ei til komazt j Eindaga. Eñ Sal þat hid þyrsta skal þramkoma jñañ þess mā-adar er Domuriñ var Dæmdr/ z þlytia heim til þess er taka a/ og sie honu þar bodit vid Votta tuo edr þleire/eñ hann take þa vid edr vmbods madr hans/ vtā sa vilie jndælla giora er taka a. Eñ øll auñur Laga mal/þau er meñ setia sin j mille Løgdoma/ þa sekizt sa Mørk vid Sakar abera er þañ Dom ryþur þor-þalla laust/og hallde þo Dom sem adr/ enn iiij Mørkū vid Kong/z sæki Sy-slu madr huorumtueggia til handa/ og take hiñ þyrst Skullð sina slika sem do-mur dæmdi henum/Eñ sektar Fe huors
 tueggia

Bauga S
Kaup. b.
þixsta
Mañh
þ rkta
þiaxst
te med
ge og h
te, te
L.k.b.

Tueggia ſie ſijdan ſkipt epter þiarmagne þeirra j mille/eþ ei vinſt til huorstueggia. Enn eþ hñ vill eñ ei Dom hallda/ þa ſkal Syſlu madr hm̄ þing ſteþna/ z giora hñ vtlægañ/nema hñ giallde ſlikt ſekta þie vpp/ſem nu var talt.

## Cap. IX.

Nuerſſu langar Lagaſteþnur ſklu vera.

Heruetna þar ſe m̄ giøra Laga ſteþnur ſin j mille a Þinge/ edur heima til Løgmanz/ þa ſkal giøra Halfsmanadar ſteþnu/eþ hann er vtan Hreps og jnnann Nieradz. Manadar Steþnu/eþ hann er vtan Nierads enn jnnañ Fiordungs, Tueggia manada Steþnu vtan Fiordungs og jnnañ Lands. R. B. H. K. Til Noregs ſkal giøra Tolf manada ſteþnu/ So ad þar meige riett aþ giøra.

þeim Malum er Løgmeñ og Syslu meñ
ba ei hier yber tekid/Erbinge edr Vm-
bodz madur Løgligur skal suara malum
hñs/ eb hñ er vtan Landz. Nu er Erb-
inge edur Vmbodz madr hans skylldr at
giøra hønum bod/ella Þing meñ/ eb ei
er Erbinge edr Vmbodz madr, a Þinge/
þuiat vidurmælis er hú madr verdr. A
þessum timum skal ei til Løgmans steb-
na. Fra Mariu messu j Faustu/ og þo
hana bere allnær Paskum/ þa skal eigi
nær edur sijdar stebna eñ halbū manude
byre Pasker/og bram vm Fardaga. Fra
Seliumaña messu og braman til Kross-
messu a Haustid/ og ei nær Jolum eñn.
Stebndur meigi vera byre Løgmañe iij.
Nætz byrer stundar saker/ og heim koīn
ad Jolum borballa laust. Ei skal vm
Jol stebna/Eñ aller adrer tijmar eñ nu
eru vndā tekner/ ero rietter til Laga steȝ-
pnu. Huer madur sa er rybur Løgmanz
Vitskird borballa laust/ er sekur iiij.
merkum

Mørkum vid Kong. Enn þat sem sa madur stefner manne til Løgmans/ med riettre Laga stefnu er løgligt Mal/ hefur a hende hn̄/ edur hans løgligur Vmbodz madur/þa sekizt sa Mørk vid Kong er stefnt var/ef hn̄ kiemr ei forfalla laust/edur hans løgligur Vmbodz madur. Enn ef Stefndr kiemur enn Stefnande ei/þa sekizt han̄ þuiliku vid Kong sem hin̄ er stefnt var/ nema løgligur Vmbodz madur hans kome/ edur sie þar fyrer j riettu laga Stefnu. Eñ sa þeirra sem þa helst ad male/þa hallde hn̄ allt þat sem Løgmadr hefur skilat þeirra j millum/ og gialde þeim Kostnad sem Mal dæmizt/allan̄ halfu aukin̄/þan̄ sem han̄ hafde fyre þui Mali/ sidann Løgmadur sagde og skilde fyrra sin̄ þeirra j milli. Nu skytur nockr sinu male yndan Løgmañe og til Auxar ar þings/þa ransake Løgriettu men̄ snuirdugliga þad mal/og þo þeim synist øllū

sa Vr=

sa Vrskurdr er Løgmadur hefur giort/ vera eige løgligr/ þa skulu þeir þo ei þn̄ Vrskurd riufa mega/ en̄ rita skulu þeir til Kongs huad þeim synizt riett j þui mali/ ꝛ slikt ransak sem þeir hafa framase profad þar vm. Þuiat þan̄ Vrskurd sem Løgmadr giører a/ ma einge madur riufa/ nema Kongr siae at Løgbok votte s[illegible]te/ edr sialfr Kongr siae ad annad sie riettara/ og þo mz hinna vitrustu manna rade og samþycke/ þuiat hann er yfer skipadur Løgun̄. Nu fær madur ei riettinde sin j bygdum heima/ edur fyre Løgman̄e/ þa ma Sakar aberi stefna þeim man̄e til Auxar ar þings/ er han̄ fær ei riett af. Og ef hn̄ hefr til þess løglig Vitne/ ad hann hefur hm̄ þangat stefnt er mal a vid han̄/ og þad an̄ad/ at mal hafe so farit þeirra j milli sem þa hefr hn̄ hermt/ Þa sklu þingm̄ døma þat mal at løgfullu / huert sem nær eru bader / edur sa ein̄ sem fram=

ber/

ber/ og Løgmañe og Løgriettu mønnum þiker byre bita/nema bull Nandsyn ba- nne þeim at koma er stefndr var/og kõe þau Søgn og Vitne þar braṁ/og suo skal vera þo at heima sie stefnt til Løg- manz. R. B. N. K. So ma giøra Laga stefnur til Syslu mãz sem til Løg manz/og halbu minne Sekt vid. R. B. N. K. Syslu men meiga giøra stundar stefnu til sin/Andsuara mønnũ þeirra manna/sem lauglig Mal haba a hende þeim/ og so Vitnum þeirra/og giore þeim riett ab sem mishalldinn er/ þo at stefndur kome ei j riettañ stefnu Dag borballa laust. R. B. N. K. So vilium vier ad riett sie at meñ gio- re stundar stefnur til Løgmanz/þa er hñ ridur vm Land at skipa Malum mañа/ so þo at stefndur meige audvelldlega til koma Søgnum sinum og Vitnum.
R. B. N. K. Eige vilium vier ad nockur madur meige skiota male sinu vndann

vndann Logmanni og Syslu manne/ad talma med þui riettinde maña/eþ skynsomum moñum synist ad þeir þat yþer tekid.

# Hier hefur Christinsdoms Balk/ og Seiger vm Christeliga Tru/ Og vm þa hlydne er Meñ eiga at veita Konge og Byskupe.

## Cap. I.



AT Er Vpphaþ Laga vorra Jslendinga sem vpphaþ er allra godra hluta/at vier skulum haþa og Nallda Christeliga Tru/ Vier skulum Trua a eiñ Gud Faudur Allzualldanda/Skapara Nimis og Jard

Jardar. Vier skulum Trua a Drottiñ vorn Jesum Christum hans eiñka son/ er gietiñ er af Helgum Anda/og fædd af Mariu meyiu/Pindur vnder Pilatus vallde / Krossfestur Deyddur og Grafiñ/For niður til Heluitis/og leysti þadā alla sijna vine. Pridia Dag epter hñ var Deyddur sinum Mañdome/ ofkøddum sinuñ Guddome/reis hañ vpp af Dauda/og var sidan med sinū Lærisueinum xl. Daga/fra Paska deige til Vppstigningar-dags/ og steig þadan til Himna. Og þadan skal hann koma a Efsta Deige/ad dæma Lifendr & Dauda/huern epter sinū yerduleikū. Vier sklum Trua a helgann Anda/ ad hñ sie Sañur Gud sem Fader og Sonur/ og þær þriar Skyllyngar er eirn Gud. Vier skulū trua þui er truer øll Kristiñ Þiod/og Heilagra Mañā samband/ og heilog Kirkia hefur samþyckt med obrigdiligre stadfestu. Vier skulum Trua ad

Synder þyre gieþazt aþ Nad og Myſk-
un Gudz/þyre verdſkulldan Jeſu Chri-
ſti/eñ ei þyre nein vor god verk. Vier
ſkulum trua ad huers Mans Likame/er j
er komiñ Heimiñ edr koma kaſt til Dóms-
dags/ſk þa uppriſſa/og þadan aþ ſkulu
þeir ed jlla giørdu/ꝛ ei jdruduſt þeſſa
Heims/ haþa endalauſañ oþagnad med
Fiandanum og hans erindrekum j Hel-
viſte. Eñ þeir ſem gott haþa giort þe-
ſſa Heims/ ſkulu þa haþa eiliþañ þag-
nad/med Gude og hans Helgū moñum
j Himeriſke.

## Cap. II.

### Vm̄ Kongs Valld ꝛ Byſkups.

NV med þui ad Gudz Myſkū
ſier til þeſſ þorþ huers Dags
liga otalligs Lyds og ymiſligs
þiolmeñis/ Þa heþur hñ ſkip

at sinum Tueimur vnder mīn og þionū
ad vera audsyneliga hn̄s vmbods meñ/
og hallda þessa Heilaga Tru/ og hans
heilagt Lögmal/ Godum m̄m til vernd-
ar og riettinda/ eñ vondum monnum til
Refsingar og Hreinsanar. Eru þesser
Tueir annar Kongr eñ annar Byskup.
Hefur Kongur af GUDI Ver-
alldligt valld til Veralldligra hluta/enn
Byskup Andligt valld til Andligra hlu-
ta/og a huor ad styrkia annañ til riettra
mala lögliga/og kieñast vid sig/ad þeir
hafa Valld og yfirbod af Gude sialfū
enn eigi af sier. Og fyrer þui ad þeir eru
Gudz Vmbodz meñ/ hins og annars/
at þeirra ma onguañ veg missa/þess hīs
pridia/ ad sialfur GUD virdizt ad
kalla sig þeirra Nöfnum/ þa er sa sañ-
liga j mycklum Hasku vid Gud / er þa
styrcker ei med fullkominne ast/og goda-
uilia/ & riettuisi/til sins vallds þess sem
Gud hefur þeim giefid/allra helzt þar
sem lög-

sem Logiñ votta so/ med stoddum endemørkum/ ad huorcki mega Nøbdingiarner/ef þeir geyma þeira/ad anødga edr þreyngia Bolkiun med obmikille agirnd/ og ad ei meige Bauitrer m̃ Syma Nøbdingium riettrar Þegnskylldu byrer þrioskü sakier og skam̃synrar Duiskit.

# Cap. III.

## Vm Lydskylldu vid Kong

NV af þui at Landzbolkit a mykla Lydskylldu ad veita Konginum / þa være þat þarbligt ad meñ vøruduſt þa miklu villu þoku er meſtur hlute Noregs Bolks hebur blindat verit so hørmuliga ad j ongu Lande ødru biñaſt dæme til/ þar sem tekner haba verir Ymser meñ/ og kallader Kongar rangliga j mote riet tum Kongum og Løgum hins heilaga

Olafs Kongs/og aullum þeim riettind um sem huer Bonde villde vña af audrum vm sijnar erfder/ og þionudu opt velborner meñ þeim er varla mattu vera Knapar þeirra/ sem eñ vottar j Dag/ huort þeir misstu fleire Odala siña/ edr hiner sem þeir kølludu Konga sina/ og so hid sama vm Maña missurnar. Nu at meñ þurfti ei griplāde hende edr leitandi epter ad fara Huer at riettu a Kōgur ad vera ad Noregi epter Løgum/ Þa sie þad kuñigt øllum Nordmoñum. Ad Magnus Kongi son Hakunar Kongs stadfeste so og liet j Løgbok setia a Frostu þinge huer ad riettum erfdum a ad vera Noregs Kongur epter Løgum hins heilaga Olafs Kōgs/Og þui jatudu.og samþykktu Noregs meñ fyre sig og sitt afspreinge vid Noregs Kong ꝛ hans Afspreinge med riettu Þingtake/ ad þesse skipan skal standa æfinliga sem þa var gior ꝛ hier fylger.

Cap.

# Cap. IIII.

## Huer Noregs Kongr vera skal

Nafne Faudur og Sonar og Heilagz Anda/ eins Gudz j Þrenningu/ sk eirit Þion hans Kongur vera yfer ollu Noregs Vellde Innann Landz og so Skattlondum.

### Fyrsta Erfd.

NV epter fraFall Kongs vors þa er su hin Fyrsta Erfd Ad sa skal Kongur vera yfer Noregs Kōgs velldi/ sem Kongs Son er/ Skilgietinn/ hinn Ellste eirn.

ÞV er aunnr Erfd/ Ad sa sonar son Kongs sem skilgietinn er skl

Kongur vera/ hiñ ellſte eirn ſem Fader hans er Skilgetiñ.

SV er hi Pridia Erfd/er Broder Kōgs ſkilgetiñ/hiñ ellſte eirn ſkal Kongur vera/ ſa ſem ſamfæddr er vid Kong/ ef einge er hiña til ſem adur eru talder.

SV er hin Fiorda Erfd er Faudurbroder Kongs/ Samfedre og Skilgetiñ hinn Ellſte eirn ſkal Kongur vera / ſa ſem Fader hans var Skilgetinn.

SV er hin Fimta erfd er Broderſon Kongs Skilgetiñ hiñ ellſte eirn ſk Kongur vera/ſa er Fader hans var Skilgetiñ/ og Samfedre vid Kong ef einge er hiña til.

SV er hi Sietta Erfd at Brædrungur Kongs hinn Ellſte eirnn ſkal Kongur vera/ſa ſem Fader hans var Faudur broder Kongs/Sam-

fedra

fedra og Skilgietiñ / ef einge er hinna til.

SU er hĩ Siøũda Erfd af Kongs son skal vera hiñ ellste eiñ / þo ad hã sie eigi skilgietiñ / So þo ad huorke sie gietiñ j Nerdome / nie Frændsemis spiollum edur Sifiaspiollum / Og Kongr sialfur hefur vid geingid Faderne hans / og sagt sialfr skilrikũ mønnum Aucæne til fyre samuistu sinnar sakir og Moder hans / og suare su stund er Barnit var fædt þeirre tiltølu sem̃ til hæfer / og hefur Moduriñ ecke tuennt til sagt Fadernis at þui Barne / epter þui sem Løgbok vottar um slik mal.
Þessu sklu þeir er vitu eigi Leyna yfer Manad / Nema þeir ottizt Ofrijke / Þa sklu þeir þo til þessa seigia einhuerium skilrijkum Mane edr fleirum so at þeir meige þar vitne umbera.

S(ad) er hin Attunda Erfd / Ad Dotter sor Kongs Skilgietinn / hinn ellsti eirn skal Kongr vera / sa sem Moder hans var skilgietinn / ef einge er hinna til.

S(ad) er hin ix. Erfd Ad Systur son Kongs Skilgietinn hinn ellste ein sk Kongr vera sa sem Moder hns var Sambedra vid Kong / ef einge er hinna til.

S(ad) er hin x. Erfd Ad sa skal Kongur vera hinn ellste eirn / er næstur er epter Brædra syne vid Kong Skilgietinn / og var Fader hans Skilgietinn / og kominn fra Sambœddum Brædrum og Skilgietnum / ef einge er hinna til.

S(ad) er hin xj. Erfd Ad sa skal Kongur vera hinn ellste eirn skilgietinn er Syskina son er vid

Kong

Kong/og komiñ ffá þeim Systkinum er bæde voru samfedra og skilgietiñ/og af riettre Konga ættiñi komeñ/ ef eingi er hiña til sem adur ero talder.

S V er. hin xij. Erfd Ad sa skal Kongur vera hiñ ellste eirn/ er Skilgietiñ er Systrungur vid Kong og Mædur þeirra voru samfedra og Skilgietnar/ og af riettre Konga ættiñe komnar/ef einge er hiña til.

N V ef einge er þessara til sem adr eru taldir/ þa skl sa Kongr vera yfer Norege hinn Ellsti eirn er Erfdum er þa næstur/ epter þui sem Landz lagabok vottar j almeligu Erfda tale/Karl eñ ei Kona/ og þo af riettre Konga ættiñe komeñ.

# Cap. V.

## Vm Kongs kostning.

NV eþ so Þungliga kann ad atberast/ad einge er þessara til/ þa sie sialþskeþnt Nerk-uga eþ hñ er til/edr Jalle/ Byskupum ollum og Abotum/Baronũ aullum og Hirdstiorum med hird allre/ ad sækia nordur til Nidar os/ til ym-rada vid Erchibyskup / og neþne huer Byskup vr sinu Byskupsdæme/⁊ Sy-slu meñ Kongs þar sem þeir eru/ rij. þina vitrustu meñ med sier epter sinne Samuisku/og sie a þaur innann þess Manadar er þeir spyria þraþall Kongs. Suo skal og huer Byskup og Syslu madur skipa til þegningar ad giæta Lãds med Bændum þyre Þioþũ ⁊ Illþyde/ so marga aþ Baronum og Systu mm̃ j huerium Logum/ sem þeir sia ad best

þæþer

hæfer. Skulu þeir ed epter sitia / jafn-
heimiler til giætzlu so yfer ødrum Sy-
slum sem sialfra siña / ella eru þeir sañ-
er landrada menn / ef ei helldur Landid
Fride sinum fyre þeirra vangiæslu. Eñ
i þañ tima sem þeir eru Nordur komner
er til þess eru nefnder / þa gange Olærd-
er meñ med suerdum eide til þess vm-
dæmis / ad þeir skulu þañ til Kongs ta-
ka / er þeim synizt fyre. Gude ad best sie
til falliñ / Eñ þeñan Eid skulu jafnuel
Byskupar abyrgiast vid Gud þo ad þeir
sueri ei / sem hiner er eid viña / ad þeir
leggi Sannindu vmrædu til þessa Mals
so sem Gud giefur þeim vit til riettilig-
azt fyre at sia. Enn ef þa skilur a / þa
skulu þeir rada sem fleire eru saman og
skilrijkari / ꝛc. Erchibyskup og adrer By-
skupar fylgia / og saña þad med eidum
sinum. Nu ef nockur lætz sig ødru vijs
til Kongs taka eñ nu var mællt / þa ha-
fe hañ fyre giort fe og fride Lande og
lausum

Lauſum Eyri/og ſie j Bañe og forbodi allra Heilagra Manna / og ſie eigi ad Kirkiu græfur/og ſo huer er hm̃ fylger til þeſſ. Nu ef Hirdſtiorar edur Hirdm̃ fyrer næmaſt þeſſa Ferd / þa eru þeir Lãdrada meñ vid Kong/nema full Nauðſyn bañe. Enn huer bonde er fyrer næmiſt þeſſa ferd/ þa er ſa ſekur viij. Ortogum og xiij. Mørkum ſilfurs vid Kong/ eñ Kongur meti Naudſyniar m. beſtu Maña rade. Enn þeſſa ferd fare huer a ſinn koſtnad/ Enn Kongr inne þeim fyre koſtnad ſiñ ſem ei hafa adur Kongs fie.

## Cap. VII.

### Um erfder Kongs Frænda

EN ef Dotter edꝛ Sonar dotter/Syſtꝛ edꝛ Moder/edꝛ þær konur adrar ſem ſtanda j erfda

tale j Landzlagabok/Suo þeir kallmenn sem j Erfda tale standa og eigi eru af Konga ættiñe komner/og eru þeir edur þær nærmeir ad skylldu til annars Arfs enn Kongdomsins/epter þui sem Almeligt erfda tal vottar/ þa skal epter þui huer til ganga/sem hm̃ votta Løg j Almennilegu Erfda tale/Og at þui Liosara verde þa mega þeir þetta fyrst erfa/ Eigner þær allar er Kongur erfer epter adra frændur sina/og þær sem hn̄ kauper med Lausa fie/ þær þo ad hann selie ecki Kongdomsins Jarder til/ edur skipter þeim j hinar/Suo skulu þau og Erfa Lausa fie/ꝛ Gripe þa ei Neyra Krunuñe til/ nema Kongur hafe adra skipan a giort fyrer skilrijkum moñū mz Vitnum og Jardteiknum sier til Saluhialpar edur Sæmdar/edur sinum holl-ustum m̄m̄ med godra Manna til løgu. Og er þat høfud Rad/ad huer bue vel fyre sier sialfr vm sijna Lifdaga/helldr



Les arfa ꝛs

høfud r

skeill ex iars uin atta

keill eñ siukur/Þuiat voskeytt er añars vinatta ⁊ eptergiörd þo allskyllt sie vm.

## Cap. VII.

### Vm Kongs Eid.

EN ad Kongur vite sig þui helldur skylldugañ vid Þegna sina Løg ad hallda/og vm at bæta/ þa skal hañ þessu iata Folkinu mz þullre stadþestu epter þat er hañ er til Kongs tekiñ. Þat Jata eg Gude/og hñs Helgum moñum/og þui hans þolke sem eg er Oüerdugr yþerskip/ adr ad eg sk þau Christiñ Løg hallda sm hiñ Heilagi Olaþur kongr hoþ/og adrer hans reitter epterkomendr haþa Nu sam þyckt millum Kongs og þeirra sem Landid byggia med huortueggiu samþycki/ og med godra mañá Rade vmbæta epter þui vite sem Gud lier mier/ Er Kögr ei ad eins skylldur Løg ad hallda vid þa

Þegna sina sem þa eru a Þingi hia honum/helldur vid alla þa sem i hans Þegnskylldu eru/ Alna & Obyrna/ En̄ þann tima sem hn̄ verdur Koronadur/ þa skl hn̄ sueria m̄m Løg & Riettinde/ med þeim Eidstaþ sem Kongs vigslu þylger.

# Cap. VIII.

## Um Eid Hertuga edur Jarls.

En Hertuge edur Jarl eþ þeir eru til skulu þen̄a Eid sueria a þui Þinge er Kongi er Kōgs naþn gieþid. Þess legg eg hønd a Helga Doma/ og þui skyt eg til Gudz/ ad eg skal vera hollur og trur minum Herra N. Noregs Konge/ bæde leyneliga og opinberliga/ og þat Lien sem Kongur veiter mier/ skal eg truliga hallda/ med þeirre hlydne og epterlæte sem Magnus Kongur Son Hakonar

Kongs skipade mille Kõgs og Hertuga edur Jarls / Veita skal eg hm̃ alla þa hlydne sem godum Hertuga edur Jarle ber godum Konge / Styrkia skal eg hañ og hans Rike bæde med heilum Radum og øllum minum Styrk / Hallda skal eg og Eida þa alla sem Kongz heþur jatad øllu Landsþolke epter þui vite sem Gud lier mier / Gud sie mier so hollur sem eg satt seige / Gramur eþ eg lyg.

## Cap. IX.

Vm Lendra mañа & Hird-
stiora Eid.

VM skulu Lender meñ & Hird stiorar þenna Eid sueria. Þess legg eg Hønd a Helga Doma / og þui skyt eg til Gudz / At eg skal vera hollur og trur minum Herra N. Noregs Konge bæde

leyniliga og opinberliga/Styrkia skal eg hañ og hans Rijke/bædi med heilū radum og aüllum styrk minum/Hallda skal eg Eida þa alla sem Kongr hefur jatad aullu Landzfolki epter þui vite ꝛ Synsemd sem Gud giefr mier/Gud sie mier hollr ef eg satt seige/Gramr ef eg lyge.

## Cap. X.

### Vm Logmaña Eid.

NV skulu Logmeñ sueria þeña Eid þañ tima er Kongur vill. Til þess leggr eg hønd a helga Bók/og þui skyt eg til Gudz/ad eg skal vera hollur ꝛ trur minū Herra H. Noregs Konge/þau Log skal eg seigia þeim m̄m̄ sem miñ Herra skipar ı mina Logsogn sem hiñ Heilage Olafur Kongur hof/og adrer hans rietter epter komendr hafa samþyckt vid þa er Lan-

 dit bygg-

bit byggia/En hueruetna þar sem Lög-
bok skier eigi skilrijkliga vr/ þa skal eg
epter þui hvers Mans mal Dæma/sem
eg vil Andsuara fyrer Gude a Doma-
deige ad riettelıgast sie epter mine sam-
uisku/og þo med þeirra Vitrustu mana
rade z sampycke/sm þa eru j hia mier/
So vm Rikan sem vm þatækan/Vngā
sem vm Gamlann/ Sakadann sem vm
Sijkiadan/Skylldan sem vm Oskylldā/
So sie mier Gud hollur sem eg satt sei-
ge/Gramur ef eg lyg.

## Cap. XI.

### Vm Bonda Eidstaf.

EN ad Bændr og Alþyda vite
sig þui skylldare til Hollustu z
Þegnskylldu z hlydne vid Ko-
ng/Þa skulu þeir þenna eid su-
eria Konge/suo margier men af huerıu

Fylki

Fylke sem honum lijkar. Til þess legg eg Hond a helga Doma / og þui sver eg til Gudz / ad eg skal vera hollur ꝫ trur minum Herra N. Noregs Konge / bæde opinberliga og leyniliga / med øllū minū matt og megne / so sem godur þegn skal godum Konge / Veita skal eg honū alla Løgliga Þionustu / ꝫ rietta Þegnskylldu epter løgum / ꝫ þeim hlunnindum sem hin̄ Heilage Olafur Kongur skipade mille Kongs og Bænda / og þeirra manna er Landit byggia / med huorutueggia sam-þycke / So sie mier Gud hollur sem eg satt seige / Gramur eþ. eg lyg. Abyrge eg mier þeña eid og øllum þeim sem i Noregs Kongs Rike eru / ølnum og Obornum / og Kongs eids eiga at mota. Eru eige ad eins þeir skyllder at abyrgiazt þeña Eid er suerja / Helldur aller þeir sem j Kongs þegnskylldu eru alner og oborner. So eru og aller men̄ j landino skyllder til Truleiks vid Kong sin̄ /

þo ad ei ſuerie hm̄ aller Trunadar Eida a Þinge/ Þuiat Noregs Kongr er Jafnſkylldr ad fylgia þeim til riettra Mala ſem heima Eru/ ſem þeim er þa eru hia hm̄ a Þinge er hañ Truloꝼar edur ſuer Løg og Riettinde at hallda og dæma Þegnum ſinum. Þat vite og aller meñ/ad þat Barn ſem fædt er a ſidaſta Deige edur Are Kongs æfi/ad Kongr er jafnſkylldur þui riett ad giora / ſem þeim er hann for Eida a fyrſta Þingei So eru honum aller ſkyllduger til allrar Løgligrar Þegnſkylldu þeir ſem Laga vilia niota/ og þeirra vilia verder vera. Enn Kongr og Byſkupar/ Lærder meñ og Barōnar og Alþyda med þeim ſkal fylgia hinum Heilaga Kroſſe og Helgū Domum aptur til Kirckiu/ Sidan ſkal Kongur ganga til Altaris og take þar Blezan/og gange ſidan til Herbergis ꝛ fylge honū aller hiner beſtu Meñ.

Hier

# Hier hefur annan hlut Log-bokar/ Og seiger vm Þegnskylldu vid Kong/ og Skattgialld.

## Cap. I.

I Nafne vors Herra JEsu Christi/ þess sem vor er Verid og Vardueisla/ Lif og heilsa/ skulū vier Konge vorum edur hans Løgligū Vmbods mañe ei synia slijkrat Þegnskylldu sem vier hefum hm̄ Jatad. Ad huer sa Bonde er skylldur ad gialllda Skatt og Þingfarar kaup er hn̄ a fyre sialfañ sig og huert Skullda hiøn sitt/ Ku edr Kugillde/ Sip edur Not/ og skal hann eiga vm̄fram̄ Eyk/ Vxa edur Hross/ og

 alla

alla Bus buhlute ſem þad Bu ma eigi
þarnaſt. Enn ſkyllda hiu hans eru þeir
meñ aller ſem hañ a ad ſkylldu ꝼram ad
ꝼæra/ꝛ þeir verkmeñ ſem þar þurꝼu at
ſkylldu ꝼyrer ad viña. Eñ þetta eru allz
xx. alnar/aꝼ huerium bōda. Skal Kōgr
taka x. alner/ enn adrar x. alner ſa ſem
Kongur ſkipar Syſlu/ med ſlikre aꝼ-
greidzlu ſemLøgbók vottar/ aꝼ þeim x.
alnum ſem Þingꝼarar kaup heiter /Eo
ſkal og huer madꝛ giallda ſkatt einhleypr
Kall edꝛ Kona/þo ad hañ ſie Bulaus/
eꝼ h. a x. hundrud ꝼyre ſialꝼañ ſig ſkulld
lauſt. R. B. N. K. Og hundrad ꝼyrer
huern Omaga ſiñ/ og eitt Hundrad vin
ꝼram. Eñ ei ſkal meira gialldaſt eñ ein-
ar xx. alner þar ſem Bōdi edꝛ Huſꝼrey-
ia andazt ꝼra/og hallda Fedgin/Syſki
edur Mædgin edur adrer arꝼar/ſamann
þeim bunade huort ſem hñ er meire edꝛ
minne/ Eñ ſa ſem j burtt ꝼer med ſinn
hlut/giallde ſem ꝼyrr vottar. Eñ huer
ſem

ſem þetta gielldur ei ƀorƀalla lauſt/adur meñ rida til Þings/ſekur vj. aurum vid Kong. Skal þetta ƀie greidazt i Vadmalum/og j allre ſkiña vøru/j Vllu ꝛ Nudū/ꝛ. þar giallda ſem hñ heƀur hei-ile att ƀyre næſtu ƀardaga/ þo ad hann ƀære heimile ſitt j añann ſtad. X. V. N. K. Sa ſkal ſkatt giallda ſem Bunad reiſer/ eñ ei ſa er bregdur Bue/ eƀ hñ heƀur miña ƀie eñ x. hundrud ſkullđ-lauſt og omaga lauſt.

## Cap. II.

A Nuerium timum Syſlu ſkal reka

SVo er tekid ad Syſlu madr ſk eige ƀiolmeñare reka Syſlu ſina eñ vid hiñ Tiunda mañ. A þeſſum timum ſkal ei Syſlu reka hier a Landi/ Fra Alþinge og til Mario meſſu ſidare / Fra Martteins

Messu/ ꝛ til Halluardz messu/Og þara Manud vm Austfirdiga Fiordūg/ Fra Halluardz messu til Þings framan/og manud mille sidare Mariu Messu og Marteins messu/og so j audrum Fiordungum a þessum timum þa ed Syslumadur vill vm siñ a huerium xij. Manadum/nema bændum siaister beidist optar/edur naudsyn bere til ad Þinga sie optar/Og skal reka Syslu Manad sidā hañ kiemur j Nordlendinga fiordung/ꝛ Manad vm Suñlendinga Fiordung/ vj. Vikur vm Vestfirdinga Fiordung sidan hñ kiemur j Syslu sina epter riettre tal tolu/ þo ad fleire sie Syslumeñ j huerium Fiordūge eñ eiñ. Eigi Skulu Soknar m̄ Syslu maña fleire eñ iiij. j Fiordunge huerium/eñ Tueir þar sem Syslu madur situr j Fiordunge. K. B. H. K. Þat er fyrer bodit ad þeir sie Liens meñ sem ei eru fulluedia aptur at bætā þat sem þeir taka Oriettiliga vtā

Bændur samþycki annad.

# Cap. III.

## Vm Riett Vtlendra manna.

EF Vtlendir menn vanuirda menn og skiemma / edur Frændkonur Manna/og med hueriu mote er vorer Landz menn eigu sins riettar at krefia af Vtlendum monnum/ þa er vel ef þeir sættast sialfer sin j mille/ ella kiære sa sig fyrer Syslu manne sem misþalldinn er. R. B. N. K. Enn hann giøre riett af hinum Vtlenda Manne erbrotligr vard/fyre Olafs Messu fyrre. Suo sie hinum vtlendum monnum riett giørt/ef þeim er rangt giørt. Enn ef Syslu madur afrækizt Riett ad giora þeim sem vanhalldinn er/þa suare hann Sektinne & dæme Lögmadr & skynsamer menn med honum þeirra j mille/ og slikt



Manb.

sim Dæmist/taki sa aþ þigþarar kaupū
nær sier/ slikt semSyslumadur a þrialst
þar til er hann heþur sitt þullt / Enn
Syslu madur heimte sitt aþ hinum /edr
misse ella. Enn styremadur sa er þa þlytr
burt j þorbode sekist iiij. Mørkum vid
Kong/huert sem velldur eiru edur þleire/og
takizt j Norege su sekt Konge til
handa/ med þui at Syslu madur villde
þier ei riett aþ giøra K. B. H. K.
Þad er þullkomliga þyre bodid/ad Styremeñ
edur Landzmeñ taki adrer huorer
samhellde mz sier/med þiesektū/at kaupa
edur selia Dyrra Varning sīn/eñ so
sem Kaupe edur Sale semia sin j mille.
Enn sa er at sliku verdur vitnisþastur
fiári slikri sekt Kongdominum þyre hün
sem hū sette vidurlogu a einhuern. K.
B. E. K. Steþnu sk leggia vid Skip/
þyrer heyanner og epter til Kaupa vid
Køpmeñ/z selie þar hønd hende. K.B.
E. K. Vm Skullder Kaupmaña/sekizt halþre

markad ð king

ð far anal. cap.

itt halfre Mörk fyrer Hundrad hũt þat sem ei er golldit ad Olafs Messu hinne fyrre forfalla laust / halft Konge enn halft þeim er skulld a.

# Hier hefr Mannhelgi/ Hinn Þridia Nut Løgbokar.

## Cap. I.

### Vm Þegngillde og Bætur



At er fyrst j Mañhelgi vorre / ad vor Lande huer j Noregs Kongs Rijke sk Fridheilagur vera vid añañ vtan Lāds og innañ. Enn ef Madr vegr Mañ/ huort

huort sem Kallmadur Drepur Konu/ edr Kona Kallmañ/Þa bare sa Vtlæ-
markz gur/Eñ Kongur take Þegngillde xiij.
Merckur af Fie edur Eigunum vegand-
ãs/nema hñ veige skiemdar Viig edur
la Eign giøre Nidigs verk/Ef Eign er i Þegn
gillde: greidd / þa skulu arbar eiganda
lausn a eiga ef þeir vilia leyst hafa iñ-
an x. Vetra / Eñ erfinge skal taka bie
hins Vtlæga til vardueitslu. Og af bie
veganda dæme xij skynsamer meñ Log-
liga til nefnder af Riettaranum/ slik
giølld epter Laga skilorde sem þeir sia
riettiligast byre Gude epter ãtuikum/og
Mala vexter eru til Erfingium hins
Dauda/einum/Enn allar adrar Frænd
bætur z Saktal' balle nidr/so ad huor-
kis frændr adrer taki nie giallde framar
enn nu var skilt. R. B. E. K. Bondi
a Vigs bæti halfar epter Husfrþiu sina.
Nu ef ei vinst Fie veganda bæde til
Þegngilldis og Bota/þa skal so skierda

þyrer huorium sem tala reñur til epter Fiarmagne. Enn eþ nockur geingur a þetta/ þa heþur hañ þyrer giort Fie og þride Lande og lausum Eyre/ og verde alldre bota madur sidañ/og so aller þeir sem Rad leggia med honum til þess ad su skipan sie roþinn/ edur a hana geingit. Alldreige skal Erþinge sel-ia. þær Eigner er hann tekur ept-er hiñ Utlæga/ medan Utlagiñ liþer/ Enn giallda skal þ allar Logligar skulld-er/aþ Eignuñ eþ ei er lausa þie til. Nu kañ sa einhuer adburdur til at gioraſt/ ad Kongur gieþr Mansbana Landzuiſt mz bænastad Hoþdingia edr añara god-ra maña/edr kiemſt hañ a Kongs þund og þær grid aþ hm̃/ Þa skal hñ sig so i þrid kaupa vid Kong sem hñs er myſkun til/og bæta þat sm̃ epter stendr sem go-der meñ sia ad þ meige orcka/ Og med slikum Salasteþnum sem þ þær vnder stadit/nema adur sie bætur allar gollo-

nar/

Manh. x

obatu m

Landzl.

nar/ Sidã skal þeirra Mal bara til sæ-
sta, sem epter lþa, epter godra manna
Dome/ Eñ þeirsem Fie hñs varduettu
mzañ hañ var j vtlegd/ greidi hm̃ slikt
sem þeir toku j Eignum og Lausa fie/
vtañ Landskyllder.

## Cap. II.

Vm skiemdar viig og Nidings verk

Engi madur ma Jordu siñe
fyrer giora/ nema hañ veigi
Skiemdar Viig edur giore
Nidings verk. Pad er Nid-
ings verk hid mesta ef Madur rædur
Laund edur þegna yndann Kongi sinum
Ef Kongur kienner mañe Landrad/ þa
skal hann nefna mañ vr Hird sinni til/
jafnborinn þeim er mali a ad suara. Eñ
ef arfboriñ madur a þui Male at sua-
ra/ þa skal Nefna Bonda son vr Hird
ef hñ

eþ hñ er til/og haþe rit og jñsigle Kõgs til/og sækie þad mal at løgum/ Enn sa er arþboriñ er kominn er til alls riettar. Þat er og Nidings verk eþ madur vegr mañ j Gridum edur trygda mann sinn/ Nuernetna þar sem madur a a sialþum sier Auerka ad heimta/edr þeim Omaga edur Fulltijda mañe er madr a Vmbod a ad Løgum/edur stendur til Arþs/ og allra þeirra maña er hñ a sialþur riett a ad Løgum/ edur heþur hann til þess Løgligt vmbod tekit/ þa skal sa sialþur grid selia/og veita Trygder med sætt ꝛ Vottum/Eru aller þrændr vnder þeim gridum og Trygdum sem sialþur veitte huer. Þat er og Nidings verk eþ madur vegur Løgmañ þyre rietta Løgsøgn/þañ er til þess er skipadur ad seigia moñum Løg/Þutat sa hoggur nidur Riettinde maña/þar sem hñ a jaþnskylldr at vera Rijkum sem Fatækũ til Laga vrskurdar þar sem hañ er yþer skipadur. Þad er ꝛ

Nidings

þramþ.b
Manb.
Dräþug
vgamans
sakir a
nanastu
er Lullty

Nijdings verck eþ madur Myrder mann Pad er ꝛ Nijdings verk eþ madꝛ breñer mañ jnne. Pad er og Nijdings verck eþ madur heþner Pioþa/Pat er ꝛ Nidings Verk eþ Madur hoggur Haund edur Fot aþ Manne/ edur stingur vt Augu manz/edur skier Tungu vr hoþdi Mañe/eda Giellder Mañ edꝛ Meider mañ ad vilia sinum sialþs. So eru þeir og obota meñ/er hallda mm þyre þessu einshúiu/sem sa er giører/Nema Kógur late reþsa til Landhreinsanar/Eñ eþ þat verdur j Vopna vidskiptū/þa þark epter þui sem Kongs Vmbodꝛ madur skipar med beztu manna radi. Enn eþ madur Drepur Fødur sinn/edur Son/ Brodur edur Moder/Dottur edur Systur/þa er hñ Obota madur/ nema odꝫ manꝫ Vijg veige / Suo og eþ Madur Drepur Konu sijna edur Kona Bonda sinn þad er Obota mal. Pad er og Obota mal eþ madur Vegur mañ jñann Stocks/

Stocks/ edr a taudu velli vte/ edur j sk-
ann gardz þess er hverþur um Akur edur
eing ad heimile stalþs hus/ ⁊ a veg til ⁊
fra/ nema hann verie hendur sinar. Suo
⁊ þeir menn er ad slikum Okynttum ver-
da kiender/ ad þeir hlaupa burt mz eigin
konr manna/ þa eru þeir Obota menn bæ-
di fyrer Kongi og Karle Dræper og
heyndadi. Menn þeir sin lata lif sitt fyrer
Vtilegu Þyfsku edur Ran/ huort sem
helldr ræna þeir a skipum edur a landi/
og so fyrer Mord ⁊ Forrædu/ ⁊ For-
neskiuskap og spaþarat allar/ og vtisetur
ad vekia Troll vpp edur fremia heidni.
Suo og þeir menn semgiorast Flugumenn
til ad Drepa þa menn er þeir eiga ongvar
saker vid og taka Fie til/ nema Kongur
lati refsa til Landhreinsanar og Fridar.
Suo ⁊ þeir menn er konur taka Naud-
ugar med Rane edur Herþangi/ j mote
Gudz retti ⁊ Manna/ huert er þeir taka
eigin konur Manna/ edur frænd konur

edr Dætr/þyrer vtan vilia þeirra maña er þorrædi eigu a þeim at Løgum/og ſo ſialþra þeirra/ huerſu ſem ſidan giorizt/ vilie þeirra er Samuiſta þeirra verdur/ Og ſo þeir ſem heþna þeſſara obota maña/edur heimta giolld þyrer ſo ad Vitne vitu þat/þa haþa þeir þyre giort Fie ⁊ Fride Lande og Lauſum eyre/ Og eru þeir aller Fridhelger er þie ſitt veria edr eiginkonur edur þrændkonur þyre þeim/ eñ hiner allir ogillder/ er til ſækia/huort helldr þeir þa Sar edr baña/bæde þyrer Konge og Karle. Þat er og Obotamal eþ madr þalſar Breþ edur Inſigle Kongs/edr Stedia Kongs j Norege. Þat er og Obotamal eþ madur Drepur þañ mañ/er hñ heþur þyre ſier Breþ ⁊ Inſigle Kongs til Landzuiſtar/edr til Ranſaks/eþ ſa viſſe þat er hñ tok aþ. Pad er og Obotamal eþ Madur tekur Konu Naudga/eþ þar eru tuø Løglig vitne til ad þat er ſatt. Nu ero eigi Vitne til/



uthen logb. 3. b. 2. 4. ... ad full ...
... xviij ... þad ... xviij ...

en hun seigist naudig verit haza/ z seig
er hn þat Sädægris/þa dæme xij. hier
Skynsomustu Men epter þui sem þeim
þiker likide til bera/og huort þeirra þm
þiker likara til sanninda. En þo ad Kona
giete varit sig fyrer Godkuensku saker/
so ad hn kome ei vilia sinum fram/þa
ber med ongu mote ad hn haze ei Ref-
sing fyre epter Dome/ef sanprofast ad
han haze fullan vilia til þess borit/ og
halldi þo lifinu. Ef madr stendur man
a Konu sine med Logligum Vitnum/
gialldi sa full mangiolld bondanum/slijk
sm han er madr til er Konu la/ef hann
være þa saklaus Drepin. En half Man
giolld ef madur stendur mann a Modur
sinne/Dottur eda Systur ef þær eigu
sier ei bændur. Skulu þessr giolld dæma
xij skynsamer men logliga til nefnder af
Riettaranum.

full m
ud.
Manh. z

half m
lld
Manh. z

## Cap. III.

